# Forordning,

umm

TILHLIIDELEGT

# Helgehalld

# Sabbathsens

Og añara HELGRA DAGA a Islande.

Utgiefeñ a

HIRSCHHOLMS-Slote þañ 3. Junii Anno 1744.

Þrickt a Hoolum i Hialltadal Anno 1749.

# Vier Christian hiñ Siøtte/ af Guds Naad / Konungur Danmerkur og Noregs/ Vinda og Gauta / Hertuge i Slesvijk/ Holstein / Stormarn og Dytmersken / Greife i Oldenborg og Delmenhorst.

Giørum øllum vitanlegt: Ad Vier høfum funded þad vera Gott, ad giøra Skipun og Skickun uñ Sabbaths-Dageñ og añra Haatijda og Bænadaga Helgehalld aa Voru Lande Islande, til Eflingar Guds Dijrdar, so sem Vier Allra-Naadugast Skipum og Bioodum hier med eñ framar.

1. Skulu aller Suñudagar, og þær Helgar, sem Løgeñ biooda, eins lijka Skijrdagur og Føstudagureñ Laange, Saker hins mikla Endurlausnar-Verks, halldast af øllum, Einum og Sierhvørium; i allre Spekt og Gudrækne, Heilager, so sem hæfer, bæde Fyrer og Epter Middege.

2. So ad Catechisationen, sem er af Oss Allra-Naadugast tilskipud, epter Predikunena, verde añadhvørt ecke of-stutt, edur ad øllu Leite vanrækt, nie hellldur ad Sooknar-Foolked tefiest of-leinge fraa sijnu Heimile, hellst þa Harka er aa Vetrum, og verde þess vegna aangursamt, þa skal Þioonustugiørdeñ vera allstadar byriud i Kyrkiunum so sneña, sem þad er møgulegt, og jafnvel þoott Fiøllde þeirra, sem ætludu ad gaanga til Alltaris, edur adrar Hindraner, sem ei verdur hiaa komest, Ordsøkudu i þessu nockra Tøf, þa samt ecke seiña eñ Kluckañ Toolf, Þar fyrer skal og Sooknar-Foolked vera so sneña i Kyrkiuñe, og þa hrijngt er i Añad Siñ, hvør i sijnum Stad, eñ eingvanveigeñ dvelia wte aa Kyrkiu-Gardenum, ellegar i naanustu Hwsum þar til ad Predikuneñ byriast: Ef nockur brijtur i moote þessu, og vill ecke siaa ad sier epter þa Þridiu Vidvorun, sem þar uñ hefur giørd vered, þa skal klaga þañ fyrer Veralldlegu Yfervallde, og hañ sie straffadur, sem saa, er brijtur Sabbath.

3. Guds Þioonustugiørd skal strax byriast aadur eñ hiñ Fyrste Psalmur, edur Introitus er sungeñ, med þeirre Bæn og Fader vor, sem þegar hefur vered iñfærd i algeingnar Messu-Saungs-Bækur, og enda aa sama Haatt med Bæn og Fader vor epter Catechisationena, og skal eiñ þeirra, sem syngia i Chornum, og kuña best ad lesa aa Book, lesa þessar Bæner med Gudrækne, Eñ i Skaalhollts og Hoola Doom-Kyrkium Eiñ af Skoola-Pilltum Doom-Kyrkiuñar.

4. Eingeñ Prestur maa utañ hærstu Naudsynia undañ fella Guds Þioonustugiørd i Kyrkiuñe Eiñ Suñu-Dag, miklu sijdur Tvo, edur Þria Suñu-Daga hvørn ad ødrum; Og ef nockur vegna Oþarfa Ferdalags, edur aan feingens Leifes, sem Løgeñ biooda, vanræker þañig þañ Søfnud, fyrer hverium hønum er trwad, þa skal hønum talast til fyrer þad af Profastenum: Og ef þvilijkt Hyrduleyse finst hiaa Profastenum,

aan

aan þess hañ hafe aadur giefed þad sijnum Biskupe til Vitundar, so sem byriade, þa skal Logsækia hañ fyrer Consistorio: Eñ ef þad skiedur optar, þa skulu þeir hafa forbroted sitt Kall.

5. Þegar þær Tijder Arsens eru, so sem um̃ Jons Messu og Mikels Messu, ad Bændurner verda ad vera sier wte um̃ Biorg og Lijfs-Upphellde, so sem añadhvort med þvi ad tijna Gros, edur Urter til Matar aa Fiollum, edur eru til Fiske-Afla vid Sioo, ellegar i Laang-Ferdum epter Fiske, þa skulu þo Prestarner Embætta, og jafnvel þott þa sieu ecke so marger til, sem kuña ad sijngia i Chornum, þa skal þo hallda Saungvum uppe, med Kveñ-Foolke, Bornum og Viñu-Hiwum, sem eiga ad koma þaangad, og skulu vera naalæg i Kyrkiuñe: Sierdeiles eiga og Prestarner ad Catechisera fyrer Ungmoñum aa þeim Tijmum, nær eckert fullorded Foolk er til Stadar.

6. Prestunum er giord sw Advorun og skipad alvarlega hier med, nær þeir eru i Kaupstodunum til ad wtvega sier Lijfs-Biorg, ad hegda sier þañig, sem hæfer Verdugleika og Vigtugleika þeirra Embættes, og þa einganveigeñ ad draga so Tijmañ, ad þeir giete ecke vered i sijnum Sooknum aa Suñudegenum, og siaalfer flutt sitt Embætte og Guds Þioonustugiord, so ad ecke stande nein Hindrun þar af; Hvors vegna Prestarner, samt þeirra Medhiaalparar, þegar þeir eru i Kaupstodunum skulu og eiga fyrr eñ aller adrer ad afgreidast af Kaupmoñum þess Jslendska Compagnies, og faa fram̃komed sijnu Eyrende. Eñ ef Prestarner kiæmust ecke so fljoott aa Fram̃fære, so ad þeir yrde ad dvelia leingur eñ Eiñ Suñudag burt fraa Sookn siñe, þa eiga þeir ad bera Um̃hyggiu fyrer þvi, ad hiñ naanaste Prestur flytie þar Guds Þioonustugiord og Embættes-Verk.

7. Prestarner skulu hallda Sooknar-Foolkenu med Kostgiæfne, aan Mañgreinar Alits, til ad koma i Guds-Hws, aasamt med sijnum Bornum, Hiwum, Hws-Foolke og Undergiefnum. Ef nockur finst Þverwdarsamur, skal honum gioraſt Amiñing Tvisvarsiñum af Prestenum; Og ef þeir vilia ei hlijda Amiñingum Prestsens, helldur koma samt sem aadur ecke, aan Riettrar Orsakar, þa skal Prestureñ klaga þad fyrer þvi Veralldlega Yfervallde, sem skal aan Bida leitast vid ad faa þad Lagfært epter Logum og Maalsens Asigkomulage: Ef Prestureñ þeiger yfer þessu, edur ef siaalfar Yfervallds Persoonurnar fiñast Vanræktarfullar i þvi, ad fara til Guds-Hwss, ellegar og i þvi, ad straffa adra þvilijka Þverbrotna og vijsvitande Sabbaths Yfertrodslu-Meñ, þa skulu þeir Prestar uppaa hvoria slijkt Hyrduleise verdur bevijsad, greida Tvofalldt Helgedags-Brot, sem falle til Faatækra Presta-Eckna: Eñ Yfervallds-Persoonum sie talad til, fyrer Forsoomun i þvi ad lifa epter Vorum Allra-Naadugustu Befalningum. Og eiga Reppstioorarner, so sem Politie-Þienarar Syslumañaña, ad vera Athugasamer hier um̃: Og, so framarlega sem þeir vilia, ecke siaalfer mæta Straffe, ef þeir eru Hyrdulauser edur Raungfilgner, seigia Prestenum til þeirra, sem þeir vita ad vera Vanræktar fuller i þvi ad vitia Guds-Hwss.

8. Eiñ og sierhvor skal fara til Kyrkiuñar aa hvorium Suñudeige þegar þar er Embættad, og eingeñ maa þad undañfella aan Logmætra Orsaka, so sem er Veykleike, Þioo-

nusta Siwkra, Vatna=Vexter og Snioo=Koma, ofmikel Vegaleingd ellegar Tor=færur, edur önnur stoor Naudsynleg Forfoll. Vanræke nockur Tvo Sunnudaga a Sumar, og a Vetrar=Tijma Pria Sunnudaga i Rod, aan Loglegra Orsaka, ad koma til Kyrkiu, þa skal sa giefa 4. Mork Donsk til fatækra Eckna i þeirre Sookn, hvar hann dvalde. Peir Islendsku Kaupmenn og þeirra Erfides=Foolk, skulu og, þegar þeir skilia Islendskt Maal nockurnveigenn, vera a sama Hatt skyllder til, ad fara til nærstu Kyrkiu a hvorium Sunnudeige, odrum til goods Epterdæmis; So og lijka þeir sem eru vid Sioo a Vetur, til ad fiska, og þeir so nefndu Kaupamenn, sem eru i odrum Sooknum til Slaattar a Sumrum, eiga ad vitia þeirrar nærstu Kyrkiu kostgiæfelega, og frammleggia Bevijsingar þar umm þegar þeirra Skrifta=Fader heimtar þad.

9. Hws=Fedur og Hws=Mædur skulu svara til þess, ef Born þeirra og Hiw koma ecke til Kyrkiunnar, þegar þau eru annars so gomul, ad þau meiga heyra Predikun med Athuga, og skulu þeir, ef þeir gieta ei sialfer raaded Boot a eins edur annars Ohlydne og Pvermoodsku, segia Prestenum þar fra, hver ed skal atelia hina Praalyndu med Alvorugiefne an allrar Dvalar.

10. Eingenn, hvor hellst sem hann er, maa fara wt wr Kyrkiunne a medann Guds Pioonustugiord stendur yfer, aan Loglegrar Orsakar og stoor Naudsynlegra Forfalla, og skulu hiner Fullordnu, sem þverskallast i þessu, epter giorda Advorun, svara Helge dags Brote; Enn hiner Ungu lijde Straff þar fyrer af Forelldrum sijnum; Og maa loka Kyrkiu=Dyrunum þegar sa Psalmur, Alleinasta Gude i Himerijke byriast, til ad hindra alla Utgaungu og O=Ordu; Po skal Hrijngiarenn, ef nockur kiemur sijdann og knijr a Kyrkiu=Dyr med ollu Sidlæte, vera fws og til Reidu ad liwka upp fyrer honum; Enn þeir sem eru naalæger, skulu vera þar kyrrer, þar til ad Guds Pioonustugiord, asamt Catechisationen er endud.

11. Sw Pridia Hrijnging med ollum Kluckum, sem sumstadar þar i Landenu er Vanaleg, þegar bwed er ad syngia hinn fyrsta Psalm, skal vera aftekinn, med þvi ad Sofnuduren hindrast þar vidur i sijnum Saung og Gudrækne.

12. Prestarner skulu hallda Tilheyrendum sijnum til þess i ollum Kiærleika ad aller þeir, ecke einunges Karlmenn, helldur og Kvennfoolk sem kann ad lesa, hafe hver sijna Psalma Book med sier, til ad syngia þar a: Og skal Kvennfoolked, bæde þa sunged er og predikad, sitia med beru Andlite, so þad byrge þad ecke med sijnum Klwtum, (til þess ad Kiennemennerner giete þvi helldur vitad, hvort þad aan Svefns take epter þvi sem framm er fært i Predikunenne.)

13. Peir sem koma til Kyrkiunnar, skulu, þegar þeir vilia ecke ganga inn i Kyrkiuna, og einginn Veikinde hindra þa þar fra, nie helldur nockur bevijsanleg Naudsyn, sem reke

epter

epter þeim ad flijta sier heim; Kyrkian eiñig er so stoor, ad þar er noog Rwm i heñe fyrer þa sem adra, allijtast sem þeir er ecke hafa vered i Kyrkiu a þeim Dege.

14. Pad maa ecke vera Keñemoñunum leyfelegt þegar Embætta skal a Fostuñe, ad tiltaka Dageñ edur hafa skipte a honum, epter siñe eigeñ Villd og sialfs hañs Hægd a hverium hañ vill hallda Fostu Predikun, helldur skal eiñ Dagur vera þar til, sem er vitanlegur Sofnudenum, Ohræranlegur, vissog tilltekeñ: Nefnelega Midvikudaguriñ a þeim Hofud Kyrkium edur Añexium, hvar Prestureñ og Sofnuduriñ getur vered til Stadar i rettañ Tijma; Eñ i þeim Stodum, hvar Kyrkiurnar eru of-fiarlægar Sofnudenum, og þeim veiter þungt ad vera til Stadar, skal Fostu-Predikun halldast Laugardagiñ fyrer edur Maanudageñ epter þañ Suñudag sem Embættad er a somu Tijd i Kyrkiuñe, eins og hijngad til hefur sked fumstadar, þo skulu þeir Dagar edur Tijder blijfa Obreitter, so ad Sofnuduriñ vite ad haga sier þar epter, þegar þeir hafa einusiñe vered vijst til skipader. Ecke helldur meiga þeir til-skipa Bæna-Daga til ad taka Foolk til Alltaris i nockre Sookn, hvar Kalled er lidugt, og eingeñ Prestur hefde vered i laangañ Tijma.

15. Til þess ad Predikanernar meige lagast, so þær sieu til Uppbyggingar, þa eiga Prestarner ecke alleina ad Studera med Bæn og Akallan til Guds uppa þeirra openberu Rædu, helldur og taka þær samañ skriflega, ad minsta Koste þad hellsta Iñtak þar af (so framarlega sem þeir hindrast ecke þar fraa med Erfide edur añarre Taalman, sem er hin hærsta Naudsyn) so ad Superintendenten gete þær yferlited, nær hañ heimtar þad i hvors Ars Visitatium, edur teked þær med sier, so ad hañ gete sagt til þess sem Þorf gioerest.

16. Kyrkiunum skal hallda hreinum og Rwmgoodum a Suñudegenum, og maa þar eins lijted a odrum, sem a þeim Dege fiñast Fatnadur edur Sængur-Klæde, Gotz edur Vara, hneixleslegar Mynder, og þær sem strijda moote þeirre Evangelisku Religion, med þvi slijkt er ovidurkvæmelegt, og ecke samhlioodande vid þau Heilogu Verk, sem þar eiga frañ ad fara. Þo meiga Kistur standa þar, med þvi sem kañ ad vera geimt i þeim, hvar ecke eru Stoolar edur Becker ad sitia a. Eiñig hvar Lopt eru i Kyrkium med Læsing fyrer, þar maa geima hreinlega Hlute, sem ecke giefa illañ Daun af sier, ellegar eru a añañ Hatt osæmande i þeim Stad: Eñ eingeñ añarleg Hondlan maa hafast uñ Hond i Kyrkiunum, añars skal sa sem gioerer a moote þessu, sekiast Emu Loode Silfurs fyrer hvert Siñ.

17. Prestarner skulu aamiña Sooknar-Foolked, ad brwka þad, sem epter er Suñudagsens og Helgareñar, til Uppbyggingar, þegar Guds Þioonustugiord er endud, og þad er komed heim til sijn aptur, og ad Ihuga hvad Kieñemeñerner hafa framfært af Guds Orde; Eiñig ad Utausa Hiortum sijnum fyrer Gude med Bæn, Akallan til

 Guds

Guds og Lestre Andrijkra Booka; Og einkanlega Forelldra og Hws-Bændur, ad þeir hallde Bornum siinum, Skilldfoolke og Hiwum til þess sama, med Kostgiæfne; Grensleſt epter af þeim, hvad þau hafe munad wr Predikuneñe sier til Uppvakningar, og ad Enda Hvijldardagiñ sameigenlega med einu Hiarta og Gudrækne, med Bæn og Fyrerbeidslu fyrer Guds Kyrkiu og Framgange hñs Ords, fyrer Oss og þvi Konunglega Erfda-Hwse, asamt odru sem eiñ riettlyndur Christeñ Madur a ad giora ad i Bæn siñe.

18. Eingiñ maa, fyrer utañ stærstu Naudsyn, viña a nockrum Suñudeige edur helgum Deige, ecke helldur skipa edur leyfa nockrum af siinum Hiwum þad ad giora, so framarlega, sem þeir vilia ecke straffast fyrer Helgedags Brot. Ecke helldur maa nockur a Skijrdege edur Fostudageñ Langa, helldur eñ a Suñu- og odrum helgum Dogum Rooa med Baata a Sioo wt, til Fiske-Afla, fyrr eñ Suñudagureñ og Helgeñ er ad ollu Leite lideñ. Nema ef so være, ad stoor Hwngurs-Neyd þreyngde Moñum þar til.

19. Allt Tabl, Leiker, Hlaup, Spil, Gaarunga-Hial og Skemtan, Ferdalog, sem ecke ahræra Naungans Uppbygging, edur Jdkun Christelegs Kiærleika, edur þær Ferder, sem gioraſt til eigeñ Aviñings, ellegar þær sem geymdar eru til ad spara Rwmhelga Daga, til Kaupstadaña edur fra þeim; Fyrerbioodaſt alvarlega hier med ollum, Einum og Sierhverium, an Mismunar, ad vidlogdu Straffe sem Helgedags-Brot askilur: Dyrfest nockur af Kaupmoñum þess Jslendska Compagnies a Suñu- og Heilogum Dogum, edur helgum Kvolldum ad selia Voru, slaatra Fenade, edur ad erfida og fremia Hondlun a nockurn Haatt, hvert sem þeir giora þad sialfer, eda laata sitt Foolk giora þad: Somuleides ef nockur lætur sig fiña a greindum Tijdum hia þeim i Kaupstadnum, til ad kaupa edur selia, nema ef þad være til ad hialpa og biarga einum Siwkum, þa skulu þeir sem brioota þar i moote, giallda Tvofalldt vid þad, sem þeir ætludu ad selia edur kaupa, skal hallft falla til þesser Openberar þetta, hver hellst sem hañ er, og hitt hallft til Fatækra Presta Eckna. So skal og sa Kaupmadur, sem verdur funden i þvi, ad ferdaſt medañ Embætte stendur yfer a helgum Dogum, til Lauga, þangad sem Skoogur er, og so framveiges, giallda fyrer Helgedags Brot fyrer sig og sierhvorn þañ sem hañ tekur med sier.

20. Þeir sem hafa nockurn Aburd medferdes, skulu hallda þar kyrru fyrer med siina Abürdar Hesta, þar til ad Helgeñ er endud, hvar þeir tooku sier Nættstad a Laugardags Kvollded, og a medañ fara sialfer, sem og þeirra Fylgiarar, so marger sem mogulegt er, til hiñar nærstu Kyrkiu; Eñ ef Kyrkiañ er so langt fra þeim, so sem þeim ed eru langt uppa Fiollum edur Fiallbygdum, so ad þeir gieta ecke komiſt þangad, þa skulu þeir hallda Hvijldardageñ og Helaina Heilaga med allre Gudrækne, þar sem þeir eru; Þo er þeim ecke bañad sem ecke hafa Aburd med sier ad færa, ad ferdaſt a Suñudags Morgne nidur af Fiollunum, ef þeir giora þa ecke añad eñ ad vitia Guds Þionustu-

giordar-

giordareñar i næstliggiande Kyrkiu. J hærstu Naudsyn er þeim og leift, sem Vilia komast wt til Vestmaña-Eya, edur þadan, ellegar gieta ecke hiaa þvi komest ad fara yfer Siooeñ, ad ferdast þa a Helgum Deige, þegar Vedurlaged hefur añars hindrad þa leinge.

21. Verde Preste nockrum boded til eins ærlegs Samkvæmes a nockrum Suñu-dege, þa skal hañ hegda sier þañig, sem vel hæfer og sæmer hañs Stande, lijka so, ad hañ sie þeim, sem eru nálæger, til Uppbyggingar, og ma hañ eingañvegiñ vera Frameſtodu Madur fyrer Borde hiaa nockrum, hver hellst sem hañ vera kyñe.

22. Eingeñ, hvert helldur Andlegrar edur Veralldlegrar Stiettar, ecke helldur nockur sá, sem fyrer þvi er trwad, ad standa fyrer Vorum Reikningum, maa á Suñu-og helgum Dogum fyrer edur epter Embætte mæda Bændur edur adra med nockurs konar Reikninga Umsvifum; Hver sem giorer i moote þessu, skal fyrsta Siñ giallda Helgedags Brot, og añad Siñ mæta Akiæru og Straffe, so sem þeir ed af Hreckvijse brioota vor Log.

23. Þeir vidteknu Sider, sem hafa vered skipader og vidhalldest fraa gamalle Tijd, med þvi Vallde sem Biskuparner hafa sier sialfer teked, Nefnelega, ad i ollu Jslande hefur Predikun vered hallden á Joola Noottiñe, yfer þad veniulega Hátijdar Evangelium Luc. 2. v. 1.----14. Og þar á moote Fyrsta Dag i Joolum vered predikad yfer þañ Texta Joh 1. v. 1. ----14. Somuleides ad Sumardagureñ fyrste og Vetrardagureñ fyrste hefur vered hallden hálfur Heilagur i Jmsum Stodum i Hoola Biskups Dæme, og eiñ Texte wtlagdur, sem Prestenum hefur sialfum sijnst ad wtvelia; Lijka þad, ad i Premur Syslum i Hoola Biskups Dæme, Nefnelega, Skagafiardar, Eyafiardar og Þijngeyar er Veniulegt, ad Bændurner kome samañ a einum vissum Dege Arsens til þeirra Kyrkna, til hverra þeim hefur vijsad vered af fyrverande Biskupum, til ad láta eina Giof wte, epter Frijvilia, Fátækum til Uppehelldis, hvar eiñig er Embættad af nockrum Prestum til skiptis; Skulu hier epter aller og olldungis vera aftekner, so sem gagnstæder þeirre Samhlioodan og jofnum Hætte, sem á ad vera i baadum Vorum Konungs Rijkium i Kyrkiu-Efnum: Og skal nu sá Texte Luc. 2. v. 1.----14. Her epter vera wtlagdur a Fyrsta i Joolum i Hár-Messu, eins og þad skedur i Vorum Konungs Rijkium Danmork og Norege; Eñ so ad Fátæker þurfe ecke i ad missa, vegna þess, ad þeir Samkomu og Predikunar-Dagar eru afteknar, sem hafa vered halldner i ádur nefndum Syslum a vissum Dege og Are, þa leyfum Vier Allra-Nádugast, ad sw Olmusa og frijvilinga Giof, sem añars hefur vered láteñ af Hende, á þeim Dege Fátækum til Uppehelldis, mege heimtast á nockrum Suñudege þa Soknar-Foolk kemur til Kyrkiuñar.

24. Og med þvi þad skal vera orded ad Plagsid a Jslande, ad Syslumeñerner ha
llda

allda Mañtal og Hierads Þijng, sumstadar i Kyrkiunum, berande þad fyrer sig, ad eingeñ Hws sieu þar til hentug, þa forbioodum Vier Allra-Naadugast her med ad hallda nockur Mañtals edur Herads Þijng her epter i Kyrkiunum, og bioodum og skipum þar a moote, ad Almwgeñ, under Vors Amtmañs og Syslumañaña Direction Uppbygge hentugt Þijng-Hws, i sierhverre Þijng-Sookn, hvar þess gioerest Þørf a hentugustu Stødum, og med þvilijkum Hætte, sem sked getur epter Landsens Asigkomulage. Añars vilium Vier Allra-Naadugast, ad þesse Vor Forordning, aasamt þvi sem Vor Norsku Løg iñe hallda um̃ þa er eiga ad hallda sier fra Kvølldmaaltijdareñar Sacramente, um̃ Svardaga og um̃ Barna Aga, se uppleseñ Arlega aa Predikunar-Stoolnum a Paalma-Suñu Dag, og Fioorda Suñu-Dag i Adventu fyrer Søfnudunum, so ad aller vite þar epter ad giøra, og hun verde allra-underdanigast adgiætt allstadar a Voru Lande Islande, eins a fasta Landinu sem þar hiaa og underliggiande Eyium, og ad þar sie þañig eptergeinged af þeim Yfervallds-Persoonum Andlegrar og Veralldlegrar Stiettar, hveriar af oss eru Allra-Naadugast skickadar, so sem þær sialfar vilia svara fyrer. Hvers vegna vier bioodum og befølum hier med Vorum Stiptbefalnings-Mañe, Biskupum, Amtmañe, Løgmoñum, Syslumoñum og ødrum, til hverra þesse Vor Forordning verdur send, ad þeir laate strax lesa hana upp og kuñgiøra a tilhlijdelegum Stødum, øllum til Epter-Rettingar.

Utgiefed aa HIRSCHHOLMS Slote þañ 29. Maii Anno 1744.

Under Vorre Kongligre Hende og Signete.

**Christian R.**

LS

Epter Allra-Naadugastre Skickan til mijn Underskrifads, Dater: aa Hirsch-Holms Slote þañ 29. Maij. 1744. Er þesse Allra-Naadugasta Forordning um̃ Helgehalld Sabbathsens og añara Heilagra Daga aa Islande, þañig sem hier siest, Utløgd aa Isslendsku epter þvi Danska Exemplare, og laateñ wtgaanga aa Prent. Test. Skaalhollte þañ 29. Augusti. Anno 1744.

LUDVIG HARBOE.